# Merkilegar frásögur
um
# apturhvarf nokkurra stórsyndara.

## Fyrsta frásaga.

Nálægt næstlidnum aldamótum var í höfudborg nokkurri madur nokkur, er bædi í trúarbragdahatri og gudsfyrirlitníngu, sem hann sýndi, og í skammarlegu líferni í öllum greinum yfirgekk alla þá, er á sömu tímum lifdu. Hann hafdi öldúngis frá sér kastad allri trú á Gud og Krist, og á ódaudleika sálarinnar. Hann hæddist ad Gudi opinberlega, spottadi alla gudhrædslu, lastadi Krist, hans manndómsteknúngu og sv. frv.; og þad svo skelfilega, ad jafnvel þeir menn, sem sjálfir voru þó ekki gudhræddir, gátu naumast á þad heyrt. Hann gjördi gis ad allri trúrækni, og sérhvern, sem nokkurn snert hafdi af gudsótta í sér, leitadist hann vid ad svipta honum fullkomlega og gjöra hann til fulls vantrúadan. Frásögur ritníngarinnar og annara andlegra bóka áleit hann ad væru lygasögur, og hlæilegar skjur, svo hann í einu ordi fyrirleit og spottadi allt heilagt og gudlegt. Hann var hermannakennari, og umgekkst því mest yfirmenn þeirrar stéttar og annad fólk af ædri röd; en hann hafdi þess betra tækifæri til ad útbreida sínar gudlausu ástædur, og þad því heldur, sem allir þeir,

er vilja á þessari öld láta telja sig í flokki hinna uppsýstari, eru til vantrúar sreklega hneigdir ordnir, í hverri þeir styrkst hafa vid ad lesa rit eptir Voltaire og adrar þessh//áttar bækur; hverra lestur gjört hafdi og svo þennan mann ad fullkomnum gudnídíngi. Annars var hann madur mikid vel gáfadur og skynsamur, og þarfyrir átti hann því hægra med, ad telja adra til ad trúa villulærdómum sínum, sem honum hafdi og stórlega tekist. Þarfyrir hafdi hann og ósegjanlegan skada gjört í því tilliti, og afvegaleitt mikinn grúa fólks til sinnar villu og vantrúar. En eins slæmur og hans þánkamáti var, eins vond var hegdan hans og breytni. Þad var eínginn sá skammarlöstur til, ad hann ekki, eins og svín, velti sér í honum, og sökkti sér svo djúpt í hann, sem hann kunni. Hann afvegaleiddi úngt kvennfólk og dreingi til svívirdilegustu lasta. Hann var ofurseldur öllum tegundum vellystar og býlifis, og réttur lærimeistari annara í því, sá svelgdi í sig syndina sem vatn, og tældi med ordum og eptirdæmi adra til þennar. Í stuttu máli, hver sem hann þekkti, sagdi um hann, ad breytni hans væri svo afvegaleidandi og skammarleg, sem hún mest gæti ordid, svo þad var ómælanlegt, hversu gudlausu og glæpafullu líferni hann lifdi, bædi í hurunarhætti, ordum og verkum. Þad leit rétt út eins og foríngi djöflanna hefdi neytt til þess allra sinna krapta og kænsku ad gjöra mann þennan ad speigli þess stærsta gudleysis og lasta, sem mögulegt var. Menn voru þessvegna hræddir vid hann nærri sem satan sjálfan, því menn vissu, ad hann var til allra skammarverka útbúinn. Hann var drykkjumadur, sælkeri, eydslumadur, svikari og lostasamur fram úr hófi; þar á ofan

bættist trúarbragdaspott, gudlast og hædni gegn allri ráðvendni, dygð og mannprýði. Þannig lifdi hann fram til ellidaga, þá hann, vegna síns ádursagda hýlifis og lostasemda, gjørdist mjøg dádlaus og vanmegna, svo hann gat ei leingur gegnt størfum sínum, og þessvegna hlant ad útvelja sér nædissamari lifnadarhátt. En af því hann ádur hafdi vanid sig svo mjog á sælgæti og óhóf, þurfti hann miklu uppá sig ad kosta, svo eptirlaun hans hrukku honum hvergi nærri. Ut af þessu komst hann í mikla naud; vard þar á ofan veikur og hafdi þúngar lídanir ad bera. Nú hafdi hann ekki leingur adsetur sitt í høfudborginni, heldur í einum stad á landsbygdinni. En þá frétti prestur nokkur af neydarástandi hans; kom því til hans, og færdi honum stundum eitthvad til ad lifa á. Nú hafdi hann ætíd ádur hatad alla andlegrar stéttar menn, og leitast vid ad gjøra þeim skømm á allann hátt, og þó var þetta þesshattar madur, sem nú var sá eini, sem sýndi honum adstod í eymdum hans, þegar allir adrir vinir hans høfdu yfirgefid hann. Þegar nú þessi ágætismadur sá þennan vesæla mann kominn í þvílíkt hørmulegt ástand, leitadi hann sér smásaman tækifæris ad tala vid hann um hans innvortis ástand, og sagdi vid hann: „nú erud þér þegar kominn til ára, erud sjúkur og sárlega haldinn. Þér lifid víst ekki leingi hér eptir, heldur munud þér vissulega deya innan skamms! Hvernig hugsid þér nú, ad ydur lída muni annars heims? hverjar vonir gjørid þér ydur um þad? Er nú sinnislag ydar allt af eins, og þér hafid sífelt ádur látid þad í ljósi? Erud þér nú fullur af hatri til Guds, þeirrar ædstu veru, og til Krists, endurlausn-

ara heimsins? Hafið þér nú enn, sem ætíð áður, andstygð á trúarbrøgðum og kristindómi? og ætlið þér nú með þessum þeinkingarhætti að yfirgefa líf þetta? Hugsið þó til þess, að eilífð er fyrir höndum! Guð er víst það, sem hann er og verður eilíflega, hvað sem yðar heili og hugarburður hafa úr honum gjört! O hvernig viljið þér nú sá standist fyrir þessari allra hæstu, og allra réttlátustu veru? Munuð þér geta forsvarað yður fyrir honum?" og þessháttar fleira talaði nú presturinn við hann. Hinn svaraði: hvað skal eg tilgjöra? Eg hefi Guði frá mér hrundið, og þessvegna mun hann útskúfa mér. Eg hefi skelfilega móti honum syndgað, og þori því ekki að upplypta augum mínum til hans; hvað skal eg fyrir mig taka? Mínar syndir eru óteljandi, þær eru geysilegar og fram úr øllu hófi! Hvernig mun eg geta fundið náð! eg! — hvernig mun eg geta hjálpast? Af þessu hans svari réði nú presturinn, að sála hans var fyrir Guðs náð þegar nokkuð undirbúin, og hann var farinn að þekkja syndir sínar, og það hörmulega ástand hjartalags síns fyrir Guði. Þar fyrir tók hann nú að afmála fyrir honum miskun og elsku Guðs í Jesú Kristi, og að leitast við að sannfæra hann um, að einginn syndari, hversu stór sem hann er, þurfi að glatast, ef hann aðeins sjálfur réttilega vill sáluhólpinn verða; að hjá Guði finnist ekki neinn fjandskapur eður heiptrækni, enda ekki í tilliti til þeirra allrastærstu syndara; að Jesús Kristur taki á móti øllum — já hreint øllum — sem snúa sér til hans af hjarta; að hann sé eins dáinn fyrir þá guðlausustu, sem aðra; að hann bæði geti og vilji gjöra þá allra stærstu syndara réttláta og sáluhólpna; og að hann sokum elsku

sinnar og miskunsemi geti ekki annad enn tekid þá til nádar, og fyrirgefid þeim allar þeirra syndir, og minnist þeirra ekki framar en þær hefdu aldrei drýgdar verid, svo framt þeir annars sjálfir af hjarta idrast þeirra og leita hans nádar. Þessvegna segist nú presturinn rádleggja honum, ad hann ekki skuli örvænta, heldur einúngis af öllu hjarta trúa og treysta uppá Jesú dauda, hans forþénustu, hans elsku og nád; hann skuli játa sínar syndir, og varpa sér í anda fyrir Jesú fætur, mæna trúarinnar augum uppá hans kross; já breyta allteins og Magdalena og ræninginn; og þá, sagdi hann, ad ekki mundi bregdast fyrirgefníng syndanna hjá Gudi. Hinn sjúki ansadi þá: æ eg vil gjarnan játa syndir mínar fyrir öllum heiminum! Gefid mér ad eins nokkurra daga frest, ad hugsa vel um mitt undanfarid líferni og mitt sálarástand, til ad geta snúid mér öldúngis til Guds, og komid þér sídan aptur til mín! Presturinn kom sídan ad nokkrum dögum lidnum aptur til hans, og fann ad hann var nú fullur af sundurknosun hjartans, ydrun, og þó undireins trausti. Nú lét hann fyrir honum í ljósi allt líferni sitt, og sagdi honum afdráttarlaust frá öllum sínum yfirtrodslum og útmáladi sig svo syndugan og lastafullan fyrir Gudi sem mögulegt var, med miklu táraflódi; svo öll hans adferd og háttsemi sýndi merki til sannarlega sundurknosads og ydrunarfulls syndara. En svo máttug sem syndin var nú ordin í honum í þessu tilliti, þá var þó nádin ordin enn þá máttugri. Hann skammadist sín ekki ad játa opinberlega fyrir hverjum manni, sem til hans kom, ad hann væri sá versti og stærsti syndari; og hann hefdi þúsundsinnum unnid til dauda, fordæm-

ingar og útskúfunar frá Guðs augliti að eilífu; og hann sagði að eingin túnga væri fær til að útmála hvað lastafullur og guðlaus hann hefði verið. Ja, hvað gjörði hann? hann lét flytja rúmstæði sitt út undir gluggann í húsi sínu; setti sig síðan á rúmið svoleiðis, að hann gat séð út um gluggann, og gat svo talað við þá, sem geingu fram hjá þar úti fyrir. Nú bað hann sérhvern, sem framhjá gekk, með hárri röddu, um fyrirgéfníngu á því hneigsli, sem hann hefði gefið þeim með breytni sinni, og sárbændi þá, að þeir skyldu, ásamt sér, flýa til Guðs miskunar í Jesú Kristi, og, einsog hann, aptursnúa til þess elskufulla miskunara, og taka sér síðan trúlega vara fyrir, að breyta í hinu minnsta eptir sínu fyrra athæfi. Þessu hélt hann áfram nokkra daga í samfellu. Fólkið safnaðist hópum saman úti fyrir glugga hans, og nærri því hver manneskja þar í staðnum og þar í grend kom þángað til að heyra og sjá þennan iðrandi syndara í hans núveranda umbreytta ástandi; og hann hélt áfram, fyrir allra augum, með til himins upplyptum höndum, að hrópa til Guðs, og láta fólkið sjá að sér væri full alvara, og að hann hefði nú af öllu hjarta feingið viðbjóð á sínum fyrra lifnaði, og fordæmdi sig sjálfan hans vegna; en að hann samt, eingu að síður, vænti sér náðar og miskunar af Guði; já, að hann þegar hefði öðlast hana, og æskti nú að geta, allt hvað mogulegt væri, afmáð það hneigsli, sem hann áður gefið hefði. Innbyggendur beggja þessara staða, bæði prótestantar og katólskir, uppbygðust eins mikið af þessari hans breytni, eins og hann hafði þá áður, og allt landið, hræðilega hneigslað; allir urðu fullir undrunar yfir

þeirri umbreytingu, sem hann tekid hafdi; lofudu Gud og vegsömudu fyrir þad, ad hann virtist ad audsýna þvilíkum stórsyndara náð og miskunsemi. Margir báðust fyrir ásamt honum, grétu hástøfum med honum, og allir tóku nokkra hlutdeild í þessu hans ásigkomulagi. Presturinn vildi stundum halda honum aptur frá þessu (af ótta fyrir ad hann reyndi ofmikid á sig veikan) og hvatti hann til ad halda sér rólegum; en hann svaradi: eg hefi ádur opinberlega í himininn syndgad, hefi lastad Gud og hætt hann, já, eg hefi hneigslad allt landsfólkid og afvegaleitt marga; þessvegna hlýt eg nú opinberlega ad láta alla sjá, ad eg hati og fordæmi mitt fyrra gudlausa liferni, og voni fyrir Guds náð hólpinn ad verda. En loksins hlaut hann þó ad taka á sig ró, vegna þess hann hafdi, med þessu móti, reynt ofmikid á sína veiku krapta. En undir eins og hann hresstist nokkud vid aptur, lét hann skrifa bréf til fjarlægra vina sinna, sem hann ádur hafdi hneigslad og afvegaleitt. Hann vidurkenndi fyrir þeim, ad sínar fyrri lærdómsástædur hefdu verid eintóm villa, og skammarlegasta afvegaleidsla; en ad sá nálægi daudi hefdi nú opnad augu sín og eilífdin hefdi vakid sig upp frá draumórum sinna ramspilltu tilhneiginga. Hann sárbændi þá, ad þeir skyldu snúa frá sínum vondu vegum, og eins og þeir ádur fylgt hefdu sínu vonda eptirdæmi, skyldu þeir nú breyta eptir þeim sinnaskiptum, sem hann tekid hefdi. Já hann skrifadi jafnvel hermannarádinu sjálfu til, hjá hverju hann hafdi ádur í þjónustu verid, og bad þad um fyrirgefningu, ad hann hefdi verid ollandi svo mikils hneigslis, skada og skammar, og ad sitt gudlausa samvitskuleysi hefdi

opt afvegaleitt sig til hvorki ad ráda né dæma eptir løgum og réttvísi, heldur hefdi hann opt af illvilja stofnad til ills. Þær manneskjur, sem honum nálægar voru, og hverjar hann hafdi, med sínum vondu brøgdum, lokkad til ad verda sem gudlausastar og lastafyllstar, lét hann bidja, ad þær skyldu til sín koma, og þá taladi hann vid þær med øllum þeim mælskukrapti, sem hann gat, og sagdi, ad þær skyldu aldeilis eingu trúa af þvi, sem hann ádur hafdi sagt þeim og kennt, því þad hefdi allt verid lýgi og villudómur; sitt eigid vonda hjarta hefdi leitt skynsemi sína í villu og blindad hana, svo hann hefdi trúad lýginni, en hast sannleikann ad hádi. En lánglundargedi Guds og þolinmædi eigi hann þad ad þakka, ad hann svo leingi hafi umlidid sig, og bedid eptir sinni umvendun. Nú kvadst hann loksins finna til þess fyrir alvøru, ad til sé heilagur og réttlátur Gud, og ad hans réttlæti tali nú og sýni sig ómótstædilegt í sinni samvitsku og hjarta, svo hann sjái nú og finni hversu þad sé hin mesta fávitska og fullkomnasta vitfirring, ad setja sig upp á móti þessari allrahæstu og alvoldugu veru, fyrir hverri allar heimsins þjódir séu — eins og ritníngin segir — valla svo mikid sem dropi í ausu. Hann sagdi þeim, ad ef þeir nú ekki strax bættu rád sitt, og vildu ekki trúa vitnisburdi sínum, sem hann nú bæri fyrir þeim í Guds augliti, þá mundu þeir þó loksins, en offeint, hljóta ad komast ad raun um, hversu skelfilegt þad sé, ad falla í (reidi-)hendur lifanda Guds; og annad þessu líkt taladi hann vid þá. Nú nálgadist hans lífs endalykt, og hann bad enn nú um ad fá þá heiløgu kvøldmáltid. Hún var honum veitt, og hann medtók hana

með innilegustu hjartans hræringu, með dýpstu auðmýkt og hjartans sundurknosan. Öll hans breytni sýndi berlega, hversu sárlega hann fann til sinnar sektar og syndaspillingar, en þó undireins hversu hann með lifandi trú reiddi sig á náð Guðs í Jesú Kristi. Í þessari sælu trú skildi hann og loksins við heim þennan, og vegsamar nú, ásamt øllum þeim syndurum, sem af náðinni eru hjálplegir orðnir, fyrir hásæti Guðs, miskunsemi þess, sem umventi honum og frelsaði hann.

Saga þessi er svo áreiðanlega sønn, að margir menn, er lifðu á sømu tíð og maður þessi, og enn eru lifs, geta sannað og staðfest hana, sem sjónarvottar; og af munni eins þessara hefur sá numið hana, sem hana hefur ritað. O að hún gæti uppvakið alla þá, sem hana lesa, til að lofa og vegsama nafn Jesú, sem getur gjørt þann guðlausa réttlátan, þann, sem dýpst er niðursokkinn, til lífsins upphafið, til þess að þeir verða skuli til lofs sinni dýrðarlegu náð. O hvílíkan frelsara høfum vér, þar sem Jesús Kristur er! Hver fær móti staðið mætti hans? Hver er svo voldugur í myrkranna ríki, að Jesús ekki geti rænt hann sínum herfángjum, og sundurskipt hans herfángi! Það er enginn sá syndari, sem hann ekki uppvakið getur, ef syndarinn ekki af þvermóðsku móti stríðir; einginn sá syndasaur og svívirðing, sem hans blóð geti ekki afþvegið; einginn svo blindaður og myrkvaður, að Jesús ekki geti upplýst hann; einginn svo fjarlægur Guði, að Jesús geti ekki til hans náð; já einginn svo steindauður, að Jesús ekki geti endurlífgað hann. Æ flýið þessvegna, ó þér syndarar! á hans náðir; flýið til hans, en ekki frá honum! Hann

vill vissulega vid ydur taka, en ekki frá sér hrekja, ef ydur sjálfum er alvara, ad flýa á hans nádir! O gæfi Gud, ad allir syndarar sættu þessum rádum í tíma! Amen!

---

## Önnur frásaga.

Í smáþorpi nokkru, er hin endurbættu trúarbrøgd voru tídkud í, var úngur madur, sem lifdi í léttud og lastafullu líferni, og leitadist þar hjá vid, ad leida marga af kunníngjum sínum á þann sama gløtunarveg, er hann sjálfur reikadi á. En einn kunníngja hans, sem líka var úngur ad aldri, lifdi eingu ad sídur í sønnum gudsótta, og sagdi því einusinni vid hann, ad hann hlyti þó einhvern tíma ad hugsa til þess, hvad fyrir honum lægi ad lyktum, ef hann héldi áfram, eins og hann gjørt hefdi, ad fyrirlíta Guds nád, sem honum væri þó enn þá frambodin, og þar á ofan leitadist vid, ad afvegaleida adra til ad gjøra hid sama. Þessi advorunarbending tók ad sønnu kroptuglega á hjarta þessa syndara, og gjørdi hann óróleganan, en hann lét samt ekki á því bera vid nokkurn mann, leitadi og ekki heldur fyrirgefníngar hjá Jesú á syndum sínum, heldur féll loksins í þvílíkt skelfilegt sálar-ástand, ad hann hreint ørvænti um velferd sína, og áleit sig glatadan; já, ørvænting hans gekk svo lángt, ad hann einn dag fór á afvikinn stad og gjørdi tilraun til ad fyrirfara sjálfum sér med því, ad hann skar sig á háls. En þad vildi svo til, ad menn fundu hann strax, enn

þá lifandi og liggjandi í sínu blóði; en sem menn hjálpa honum, sagði hann: „látið mig vera kyrran, eg hefi til einkis betra unnið!“ Nú var í mesta flýti sóktur sáralæknir til næsta þorps, til þess að skoða sárið og binda um það. Læknirinn sagðist hafa litla von um að hann mundi lífi halda. Þá bað þessi úngi maður, að menn vildu kalla á stallbræður sína og nágranna, og segja þeim, að hann bæði þá að koma til sín, því hann lángaði til að segja þeim nokkuð. Þetta var gjört; og hann sagði þá til þeirra: „Nú getið þér séð hér á mér hörmulegt dæmi þess, hvað af því flýtur, þegar maður hefur þjónað syndinni! Mín sál er nú eilíflega tortýnd. Sá illi djöfull, sem eg hefi svo leingi látið við mig ráða, hefur nú feingið yfir mér fullkomið vald, og bíður eptir því, að hann geti hremmt sálu mína, til að draga hana með sér ofan í afgrunn eilífra kvala.“ Síðan var prestur sóknarinnar sóktur til að vitja hans, en hann vísaði honum burtu frá sér með þessum orðum: „Eg get nú hvorki né vil heyra yðar orð! Þér þurfið sjálfur að umvenda yður, áður enn þér umvendið öðrum; því með yðar tali áður, og með yðar breytni hafið þér gefið mér og líka öðrum vont eptirdæmi. Þér hafið sagt bæði þeim, sem þér hafið fermt, og öðrum yðar sóknarbörnum, og talið þeim trú um, að dans, spil og aðrar þessháttar veraldlegar lystisemdir væru saklausar ánægjusemdir, en eingar syndir; og með þessu hafið þér lagt grundvöll til minnar, og máske margra annara eilífu ólukku.“ Eins og nú þessa manns örvæntingartal var allt af að verða hræðilegra, eins fór hræðsla þeirra og ótti, sem hjá honum voru, æ

varandi, svo valla gat nú neinn haldið það út, að vera hjá honum á nóttunni, og menn ætlaðu varla að fá neinn, sem hefði hug til að vaka hjá honum. En eptir nokkra daga liðna fann sá áðuráminsti guðhræddi úngi maður — af hvers orðum þessi syndari hafði í fyrstu skelfdur orðið — yfrið sterka innvortis hvöt hjá sér, að koma til þessa ørvæntingarfulla vesælings og tala við hann. En áður enn hann fór af stað, féll hann fram og bað með mörgum tárum sinn og allra manna endurlausnara, að hann vildi virðast að veita sér þá náð, að hann gæti talað eitt orð þessum ólukkulega manni til huggunar, og að það feingi fest rætur í hans sálu. Þegar hann nú kom til hans, sagði hinn vesæli: „nú kemur þú offeint, minn vin!" Þá svaraði sá aðkomni: „Vinur kemur aldrei offeint!" En hinn hélt þá áfram talinu og sagði: „jú víst er það offeint; hefði eg hlýtt þínum áminníngum fyrri, þá hefði eg nú getað verið eins lukkulegur og þú ert; en nú er eg glataður, og sá illi óvinur heldur mér svo fast í sínum snörum, að alls eingin manneskja getur hjálpað mér!" Það er öldúngis satt, segir hinn, að einga þá manneskju er í allri veröldu að finna, sem þér hjálpað geti; en eg þekki þó — eins vissulega, eins og þú sér mig hér fyrir augum þínum — þann frelsara, sem fyrir oss alla er dáinn, en er þó nú lifandi, já lifir frá eilífð til eilífðar. Hann hefur lykla helvítis og dauðans, og fyrir honum hlýtur sjálfur djöfullinn og allir vondir andar að víkja. Hann einn getur þinni sálu hjálpað, já hann vill líka hjálpa henni, og mun vissulega gjøra það, ef þú nú með bæninni snýr þér til hans, og sárleitar eptir hjálp hjá honum. Sá ólukk-

ulegi varð af þessu tali heilsusamlega hrærður, en sagði þar hjá, að hann gæti ekki beðist fyrir, já ekki beðið eitt orð. Svo vil eg þá, svaraði hinn, biðja fyrir þér til frelsarans, og undir eins sýna þér, hvernig þú sjálfur átt að fara að biðja. Þar eptir kraup hann niður hjá rúmi þessa únga manns, og gjørði uppháátt brennandi bæn til Jesú, sem sjálfan sig hefði útgefið til fórnar fyrir allrar veraldarinnar syndara. Þegar hinn heyrði þetta, sagði hann: Eg þakka þér nú af øllu hjarta fyrir; því nú hefi eg nokkurn føgnuð øðlast, og eg finn að nú get eg flúið til Jesú og beðið hann um náð. En biddu nú líka heima hjá þér í kyrðum fyrir mér, og vitjaðu mín svo á morgun aptur; og svo fór hinn í burtu frá honum, heim til sín. Nú sem fráleið, gat sá uppvakti syndari ekki beðið eptir því, að vinur hans sjálfkrafa vitjaði hans, heldur lét hann snemma morguns kalla hann til sín, og sagði þá til hans: „á þessari nóttu hefur sá miskunsami frelsari opinberað sig fyrir mér, sem minn friðþægjara, og hann hefur mér allar minar syndir fyrirgefið. Nú finnst mér eg vera óútmálanlega lukkulegur orðinn; allar þær skelfingar myndir, sem äður stóðu fyrir augum sálar minnar, eru nú horfnar, og minn frelsari er hér sannarlega nálægur. Eptir þetta lét hann sækja alla sína nágranna og kunníngja, sem hann hafði áður móðgað eður afvegaleitt, og bað þá hjartanlega fyrirgefningar, og, með óalmennilegri alvørugefni og adfylgi, upphvatti þá, að þeir ekki draga skyldu sína umvendun undan, og lauk svo tali sínu með þessum orðum: „Það er yður kunnugt, hvílíku líferni eg vesæl og forðæmingar makleg manneskja hefi lifað, og hversu

djúpt eg að síðustu fallinn var; en frelsarinn hefur nú, eptir sinni stóru miskunsemi, hrifið mig úr hinni eilífu glötun, eins og brand úr eldi. Nú mun eg bráðum til hans koma, og hann eilíflega þar fyrir vegsama; og hann hefur nú tekið mig til náðar, rétt eins og þegar stórbrotamaður er á sjálfum aftökustaðnum til náðar tekinn.“ Nokkrum dögum eptir gekk þessi maður sáluhjálplega út af tímanum inn í eilífðina, og hans síðasta tal og hegðan eptirskildi í margra sálum rótgróna og blessaða verkan þeim til andlegra heilla. Lof sé Guði fyrir sína náð!.

---

## Þriðja frásaga.

Banasængurtal manns nokkurs í Norður-Ameríku að nafni Micajah Wood, sem deyði á 63. aldursári, staðfestir mjög þann sannleika, að við endalok lífsins sé ekkert svo huggunarlaust sem vantrúin.

Þessi maður M. Wood var í frá úngdómi stakloga atorkusamur akuryrkjumaður, og hafði þarmeð áunnið sér og grætt talsverðar eigur. Hann var maður gæddur fjörugri hugvitsgáfu, samt góðsúsu og mannkærlegu hjartalagi. Fáir menn hafa getað framar honum öðlast tiltrú og kærleika sinna meðmanneskna og kunníngja. Hann hafði leingi á hendi haft ýmisleg álitleg embætti, sem hann vandaði vel og af hendi leysti. Seinast æfi sinnar var hann æðsti dómari þar í héraðinu, sem hann átti heima. Tíu dögum áður hann deyði var eg til hans kallaður (segir sá,

sem sögu þessa hefur fyrst ritað), og þá datt eingum í hug, að endalykt hans mundi svo nálæg, sem hún var. Sjúkdómur hans var mikið hægur, og andi hans, eptir vana, með fullri greind og fjöri. Þegar eg kom inn í herbergið, þar sem hann lá sjúkur, bar mér það fyrir sjónir, sem eg aldrei sæ gleymt. Heiðursverður gamall maður, sem þó var einn af þrælum hins sjúka, stóð þar hjá rekkju hans, hélt í hönd herra síns, og eins og benti honum með tali sínu til endurlausnarans. Þá sagði sá hinn sjúki til mín: „hér sjáið þér gamlan trúlyndan þénara minn, sem allt sitt lífdagaskeið hefur lángtum betur lifað enn eg. Hann er sannkristinn, en eg er glataður syndari. Eg vildi nú miklu heldur vera það sem hann er enn það sem eg er, og þó eg ætti alla fjársjóðu Indíalands. Eg hefi, því miður, áður verið ólukkulegur lærisveinn Paynes*); og það sem verst var, að eg leitaðist við, hvað eg gat, að gjöra aðra eins vonda, og eg sjálfur var. Æ! viljið þér nú reyna-til að biðja fyrir mér?" Þessa hans hrærandi beiðni uppfyllti eg fúslega, mitt í því að allt hans heimafólk og vinir stóðu grátandi í kríng um mig. Sama dag, um kvöldið, talaði hann meira um sitt ásigkomulag. Hann sagði til dæmis: „Hvern ávinníng hefi eg nú af öllum þeim vantrúarritum, sem eg svo gjarnan áður um æfi mína hefi lesið? alls ekkert, nema þá skelfíngu og sálarneyð, sem eg er staddur. Af lestri þessara rita hefi eg alla mína ógæfu. En eg hefi nú feingið mestu andstygð á þeim öllum, og vil hreint

*) Þessi Payne var lærður Einglendíngur, sem skrifað hefur háskalega láldragandi ritgjörðir móti sönnum kristindómi.

med ǫllu ſkilja mig vid þau.“ Þeſsi og ǫnnur voru hans ord. Næſta morgun þar eptir ſagdi hann vid mig: „Þegar eg er lagſtur í þá kǫldu grǫf, þá bid eg ydur ad ſegja fólkinu af prédikunarſtólnum allt þad, ſem eg hefi ſagt ydur um mig; ſkýrid því frá allri ſǫgu minni, og hvernig fyrir mér hefur tilgeingid; ſegid fólkinu, ad eg hafi verkanir vantrúarinnar full-komlega reynt; og þegar eg hafi nálægur verid ord-inn daudanum, hafi eg fundid og reynt, ad vantrúin er ſem botnlaus gryfja. Því þó mér hafi fundiſt — medan eg hafdi líf og heilſu — vera nokkud í hana varid, þá hafi eg þó lokſins, þegar daudinn nálægd-iſt, fundid hvad ónýt hún ſé og ſkadleg.“ Tveir gamlir vinir hans og ſtallbrædur komu til hans, þegar hann var ſjúkur ordinn; hǫfdu þeir beitt ſǫmu van-trúaráſtædum, ſem hann ſjálfur ádur haft hafdi, en ſagdi nú hreint ſkilid vid. Þegar hann ſá nú þeſsa menn, tók þad ſterklega á hann. Hann ſnéri ſér þeſs-vegna til þeirra og ſagdi: „eg vona þid takid þad ekki illa upp fyrir mér, þó eg tali hér opinberlega vid ykkur. Vid hǫfum allir ad undanfǫrnu haft ſama hurunarhátt, en nú hefi eg hann ekki leingur. Eg ſegi nú med ǫllu ſkilid vid og kaſta frá mér þeirri grundvallarlauſu trú, ſem eg hefi ádur haft. Eg get ekki dáid rólega og ſáluhjálplega, og verid þó, ſem ádur, vantrúadur. Eg bid ykkur því, ad þid og ſvo ſegid ſkilid vid þvílíka trú!“ Hann taladi enn nú meira vid þá, og taladi þad med ſtórri alvǫrugefni. Þegar þeir nú voru geingnir burtu úr herberginu frá honum, ſpurdi hann mig, hvort hann hefdi gjǫrt þad órétt, ad tala þetta vid mennina, eda hvort hann hefdi nokkud þad ſagt, ſem ekki hefdi rétt verid. „Eg

gat ekki, sagdi hann, sleppt svo gódu tækifæri ónotudu, án þess ad reyna til, ad gjøra þeim á þennan hátt nokkud gott. Eg bid, ad þér ekki latid ydur mislika þessi mín ord, sem eg vid ydur tala!" Þessu hans opinbera og alvörufulla tali, med hverju hann afneitadi og burtskúfadi hreint sínni gømlu vantrú, fylgdi einnig einlæg idran. Þad var þó ekki einúngis ótti og kvidi fyrir Guds dómi, sem hafdi gagntekid hann; því í rauninni taladi hann mjøg sjaldan um afleiding syndar og vantrúar, hvad straffid snerti, heldur var þad alvarlegur innvortis vidbjódur og andstygd á syndinni, sem hann var fullur af. Þrávallt kalladi hann hátt þessum ordum: „allt hvad eg get sagt fyrir Gudi, er einúngis þetta: æ Gud, vertu mér miskunsamur! mér — vesælum, voludum og svívirdilegasta syndara!" Í annad skipti taladi hann med berum ordum á þennan hátt: „Eg veit vel, ad minir medborgarar hafa haldid ad eg væri hreinskilinn, rádvandur madur og gódur borgari; þeir hafa elskad mig lángtum meira, enn eg hefi tilunnid. Hefdu þeir vitad, hvílíkt ad mitt hjartalag var, þá hefdu þeir allt annad um mig hurad. Mitt í øllu mína góda útvortis sidferdi hefi eg þó í hjartanu verid vesælasti syndari." Já, hann bardi sér á brjóst og sagdi: „O, hér hafa inni verid þúsund af þeim syndum, sem ekkert manns auga séd hefur; en Guds auga hefur séd þad allt saman." Slíku tali hélt nú madur þessi áfram med innilegu bænakalli til Guds, fullur af hreinni ydrùn og lifandi trú á Jesúm — þángad til hann skømmu þar eptir skildist vid lífid og gekk inn í eilífdina.

---

Af þessum frásögum má margt til íhugunar taka:

1) Af fyrstu og þriðju sögunni má sjá, að vantrúin, hvort sem henni hér í lífi fylgir útvortis glæpafullur eður ráðvandur lifnaður, er jafn banvæn sálunni.

2) Að þó vantrúin geti svæft samvitsku manns, meðan líkamans heilsa og kraptar eru óskertir, bilar hún opt, þegar dauðinn sjáanlega ber að dyrum, og snýst þá upp í bitrustu örvæntingu.

3) Að þó maðurinn hafi bókstaflega rétta trú, og hvorki neiti sannleika evangelii né spotti hann, er hún samt ónýt til sáluhjálpar, ef henni ekki fylgir innvortis dagleg sönn iðran, og útvortis guðlegt líferni; því einsog trúin er án verkanna dauð, allteins eru verkin án trúarinnar.

4) Að einsog trúir viðþurðir kennendanna gjöra ekki alllítið til að efla umvendun annara, (eins og fyrsta og þriðja frásagan sýnir), svo hindrar hana allteins lifnaðar- og lærdómsmáti þeirra, ef hann er ekki réttur, (eins og hin önnur sagan sýnir dæmi til).

5) Að viðleitni sannguðlega sinnaðra manneskna — af hverju helst standi sem eru — að umvenda öðrum, getur orðið til bestu blessunar; mannleg vitska og veldi stoða þar harla lítið, eins og postulinn vitnar (1 Kor. 1, 17—28). Svo sýnir og sú önnur frásagan hér að framan, að það var guðlegur únglíngur, sem til vegar kom umvendun þess manns, sem presturinn hlaut að yfirgefa; en þriðja sagan sýnir, að það var fátækur gamall þræll, sem vakti sinn vantrúaða húsbónda til iðrunar.

6) Að umvendanin, sé hún sönn, kemur ætíð í ljós með sama hætti, nefnil. með alvarlegu ángri

fyrir syndirnar, og hatri til þeirra, svo madurinn skammast sín þá ekki, ad játa þær opinberlega bædi fyrir mønnum og fyrir Gudi, eins og allar frásøgurnar sýna.

7) Ad þegar madurinn er sannumventur sjálfur, lángar hann hjartanlega til, og leitast líka vid, ad umventa ødrum, eins og øll dæmin ad framan bera vitni um.

8) Ad Gud er eins fús á, ad veita þeim stórsyndugustu náð sína, sem þeim er minna sýnast hafa syndgad, ef bádir eins réttilega leita hennar; en gjøri þeir þad ekki, fær hvorugur neina miskun; og ad treysta uppá dygdir sínar og gódverk fyrir Gudi, er sem ad byggja hús sitt á sandi.

9) Ad þad er stór velgjørníngur Guds, þegar hann leggur á þann, sem ádur var idrunarlaus, þúngt mótlæti edur lángvarandi sjúkdóm, ef hann sér, ad hann vid þad umventast muni, en kippir honum ekki brádlega burtu mitt í syndum hans. En þó umventast ekki allir þar vid ad heldur; Gud nádi þad! Hugsid eptir þessu allir, sem þad lesid edur heyrid!

---

Kaupmannahøfn 1853. Prentad hjá S. L. Møller.